# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

15. árg. WINNIPEG, DESEMBER 1900. Nr. 10.

## Hin fyrsta jólanótt.

Eftir séra Steindór Briem.

Hið geigvæna myrkr um gjörvalla jörð
sig grúfði um heldimma nóttu.
En úti þó vöktu enn hjarðmenn með hjörð,
er hugrakkir, ötulir þóttu.

Þeir höfðu sig vanið á vosbúð og þröng
og vökur og kulda og þrautir ;
þeir bjuggust við nú myndi nótt þessi löng,
þeir nötruðu kaldir og blautir.

En nú var í Betlehem bjart og svo heitt;
í borginni ljósin þeir sáu.
Já, þar er nú glaumr og vel er þar veitt
þeim voldugu, ríku og háu.

Og aldregi fyrr hafði fjölmenni slíkt
svo flykkzt upp að Betlehem áðr,
og hóprinn þangað sér hraðaði líkt
og hraðspunninn, óslitinn þráðr.

Já, þar voru höfðingjar hvervetna frá
úr héruðum ríkisins öllum,
og margan þar skrautbúinn mann var að sjá
við munað í bœjarins höllum.

En þar komu' og fátœkir, félausir menn,
sem fengu' ekki húsrúm hjá neinum.
Og fátœkt á heima í heiminum enn,—
það heyrum vér, sjáum og reynum.

---

En hvað var að tarna, um hagann varð bjart,
svo hjarðmenn þar skjálfa af otta.
Sjá, jörðin öll fœrist í skínanda skart.
Í skyndi þeir leggja á flótta.

En engill stóð hjá þeim og ávarpar þá:
,,Hvort ætlið þér, vinir, að flýja?
Ó, heyrið þér orð mín og hlustið mig á,
því huggun eg fœri' yðr nýja.

Eg kem með þá huggun, sem fólkið allt fær,
og friðinn á jörðu eg boða.
Nú ljósið það kveikt er, sem lýsti' ekki' í gær,
er leiða skal mannkyn úr voða.

Því guð leit til mannanna niðr í náð
og nálægist þá, eins og bróðir,
sem hann hafa umflúið, hatað og smáð.—
Sjá, hér er í fjárhúsi móðir.

Hún hefir það barnið í heim þennan fœtt,
er heitið var mannkyni forðum,
hinn heilaga frelsara' af Abrahams ætt;
guðs orð standa jafnan í skorðum.''

Og himneskar birtust þar hersveitir þá
hjá hirðum og lofkvæði sungu.
Á svipstundu hvarf þá öll hræðsla þeim frá
og harmr og raunirnar þungu.

Þær dýrð sungu guði, sem gaf mönnum frið
og gleðina' á jörð sendi niðr,
og samtengdi mennina sjálfan sig við,
lét segja': ,,Eg hef' þóknun á yðr''.

---

Svo úti er sýnin og allt verðr hljótt,
en innvortis hirðarnir brenna.
Þeir segja: ,,Vér skulum nú skunda heim skjótt
og skoða vel atburðinn þenna.''

Til Betlehem héldu með brennheita von
og beinustu skunduðu götu.
Í fjárhúsi mey hafði frumgetinn son
þar fœtt og hann lagðan í jötu.

þeir agndofa stóðu og inntu því frá,
er úti í högunum skeði.
Og allir, sem heyrðu það, undruðust þá ;
hið innra bjó friðr og gleði.

En þá var í höllunum háreysti' og þras
og hverskonar ólæti' og stunur,
og illmæli' og deilur og óþarflegt mas.
Ó, aðgætið : hvílíkr munr!

þeim andlega voluðu' og fátœku fyrst
er fagnaðarerindið boðað.
þótt auðlegð og heimsgœði hafi þeir misst,
hið himneska geta þeir skoðað.

Í fátœkum hreysum oft friðrinn býr,
en fláræði' í konunga höllum.
Sé andi guðs með oss, allt fláræðið flýr,
því frið vill hann gefa oss öllum.

---

þú, hirðirinn góði, komst hingað á jörð
til hagvilltra, glataðra sauða.
Ó, leita þú að oss og leið þína hjörð
í ljósið til þín gegn um dauða.

---

## Frá Íslandi.

**Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.**

### XII.

(Niðrlagsþáttr.)

Kirkja Reykvíkinga og dómkirkja landsins er hvergi nærri nœgilega stór fyrir söfnuðinn, eins og hann hefir verið síðustu árin. Í Reykjavík er þörf á tveimr lúterskum kirkjum með 2 til 4 þjónandi prestum, er vinna saman í kærleika og bróðerni á hinum sama grundvelli. Kirkjulífi höfuðstaðarins fer ekki verulega fram fyrr en þetta verðr. Sunnudags-uppfrœðsla unglinganna, hvort sem hún er nefnd sunnudagsskóli eða barnaguðsþjónusta, ætti að fara fram í kirkj-

unni, eða kirkjunum, þegar þeim fjölgar. Á öðrum stað*) hefi eg lýst þeim barnaguðsþjónustum og sagt sögu sunnudagsskólahreyfingarinnar á Íslandi. Þar hefi eg einnig minnzt á þá efnismenn, er fyrir því starfi gangast. En aðal-maðrinn í því starfi, Friðrik Friðriksson, er nú hefir nýlokið námi sínu við prestaskólann, er alveg einstakr maðr í kirkjusögu Íslands á síðari tíð. Elja hans og óeigingirni í öllu hans verki, auk annarra stór-kosta, er dœmalaus vor á meðal. Starf hans fyrir hina ungu nemr ekki staðar við barnaguðsþjónustur á sunnudögum, heldr hefir hann komið á fót margskonar félagskap og starfsemi, ásamt kennslu, fyrir unglingana í Reykjavík, allt til þess að geta haft kristileg áhrif á þá. Vakinn og sofinn vinnr hann þannig, þrátt fyrir hin erviðustu kjör. Meðal annars heldr hann úti mánaðartíðindum, er skýra frá starfi unglingafélaganna og flytja ýmsar kristilegar hugvekjur. Þau kosta einungis fáa aura, og ætti íslenzkir unglingar hér vestra að lesa þau. Þegar kirkja Íslands eignast marga slíka starfsmenn og kærleiksþjóna, þarf hún ekki að kvíða né kvarta. Eg er hjartanlega samþykkr einum allra merkasta presti Íslands, er skrifaði mér, meðal annars, þetta : ,,Ef drottinn fær snúið hjörtum vor prestanna fullkomlega til sín, lagast allt annað í hinu andlega ástandi landsins.''

Um dómkirkjuna í Reykjavík skal eg auka þessu við : Að utan er hún ekki fögr kirkja, enda farin að eldast. Turninn er lágr og tilkomulaus. Bœjarklukkan er myndarleg, en engin prýði er að hinum flatta þorski, hvort sem hann á að tákna þjóðarmerkið, sem ekki á við, þó á *þjóð*-kirkju sé, eða ,,guðlaxinn'' samkvæmt hinni fornhelgu hugsun. Annars ber meira á kaþólsku kirkjunni en dómkirkjunni í bœnum. Að innan er dómkirkjan aftr mjög vel gjörð. Prédikunarstóllinn er þó ekki á hentugum stað og all-ervitt mun að tala í henni, ekki stœrra húsi. En þó þetta sé nú hér sagt, efa eg mjög, að kirkjubyggingarnefnd Reykjavíkr taki það til greina síðar meir. — En eins og hagsýni í verki er nauðsynleg, þegar kirkja skal byggð, eins þarf kirkjuleg smekkvísi yfir höfuð að aukast. Og á Íslandi er of lítið af henni.

*) ,,Kennaranum'' II, 10, bls. 154—158.

Um sönginn í dómkirkju landsins er óhætt að segja það, að vafalaust gæti hann verið betri en hann er. Allar ástœður eru til þess, að hann gæti verið meira lifandi og upplyftandi en mér fannst hann vera. Söngr safnaðarins á engan smáræðis þátt í því, hvernig guðsþjónustan heppnast, hvar sem er, og hver áhrif hún hefir á mannshjörtun. Kirkjusöngrinn heima er œði seinn og þunglamalegr, einhver útfararblær á þeirri athöfn, án þess þó mér falli vel í geð öfgarnar gagnstœðu í enskum og ameríkönskum kirkjusöng eða eg mæli með þeim.

Annað atriði má ekki alveg gleymast. Bœnin er eða hefir verið að hverfa úr kirkjum Íslendinga,—hvað sem hjörtum þeirra kann að líða. Efamál er það, hvort það er eiginlega bœn, sem flutt er undir því nafni af sumum íslenzkum prédikunarstólum, því eg hefi bæði heyrt og séð prédikað í bœninni og beðið í prédikaninni. En úr kirkjubekkjunum fannst mér bœnagjörðin nálega horfin, þar sem eg sá fólk við guðsþjónustugjörð. Og hér vestra bryddir almennt á því sama. Í þessu, sem ýmsu öðru kirkjulegu, hefir tilfinnanleg aftrför átt sér stað meðal vor síðastliðin 25 ár. Einhverja ögn er þetta þó að lagast sumsstaðar í allra síðustu tíð.

Ekki þarf að lýsa því, hve mjög þessi bœnagjörðarskortr ber vott um ýmsa aðra andlega vöntun, hvar sem hann kemr fram, í prédikunarstól eða kirkjubekk. Manni getr fundizt, að öll vöntun á sannri trú og syndajátning, á viðkvæmni og auðmýkt fyrir guði, öll þrjózkan og harðneskjan í manninum, sem jafnvel í kirkjunni vill verja hjarta sitt gegn guði og áhrifum hans orða, eins og hermaðr ver vígi sitt, komi einmitt fram í þessum tilbeiðsluskorti. Kuldi og mótþrói mannsins gegn hinu guðlega kemr þar fram sem holdi klæddr. Því „bœnin má aldrei bresta þig" og þá sízt í sjálfri guðsþjónustunni í drottins húsi, því „þeir, sem tilbiðja hann, eiga að tilbiðja hann í anda og sannleika".

Hinn stutta tíma, er eg dvaldi í Reykjavík, gat eg lítið sem ekkert ferðazt, mest vegna stöðugra úrfella. Þó fór eg 13. Sept. til Þingvalla, og með mér þeir Einar Hjörleifsson og Haraldr Níelsson. Óhætt er að segja mönnum það, að þeir

menn eru fulltrúar hins allra bezta og aðgengilegasta í öllu þjóðlífi og kirkjulífi á ættjörðu vorri á yfirstandandi tíð. Í þessari þingvallaferð gjörðist lítið, sem almennum tíðindum sætir. Vitanlega var mér sjálfum þessi samfylgd eitt hið ánœgjulegasta á Íslandsferð minni, og mun hún seint fyrnast mér.—Áform mitt hafði verið, að fara frá þingvöllum austr að Gullfossi og Geysi og austr að Stóra-Núpi. En tíðarfar og tímaleysi hamlaði því.

Eiginlega veitti eg helzt athygli mönnum og mannlífinu í Reykjavík. þó sá eg í svip söfnin þar m. fl. Landsbókasafnið er býsna myndarlegt, bókasafn með nálægt 40 þúsundum binda. Forngripasafninu var einna lakast fyrirkomið. Engin skrá er til yfir það og enginn leiðarvísir. Og fremr líktist það ruslakistu en safni. Hvað mig snerti, bœtti það úr, að eg naut fylgdar hins göfuga og góða öldungs Páls sagnfrœðings Melsteð. — Vísir til málverkasafns og náttúrufrœðislegs safns eru og til. Íslendingar hér vestra ætti að gefa þessum söfnum árlega ýmislegt, sem þeir kunna að komast yfir hér í landi.

Eg vík aftr orðum að Páli Melsteð, því hann er mér þó dýrmætari en öll söfnin þar, — er sjálfr safn af fróðleik. Hann er með elztu mönnum á Íslandi, nú rúmra 88 ára (f. 13. Nóv. 1812), en hefir þó stálminni og er efalaust með ágætustu og margfróðustu mönnum af vorum þjóðflokki. Auk þess er hann enn eins áhugamikill sem hinir áhugamestu yngri menn, ekki sízt um öll andleg mál. Líkt og Símeon, kvaðst hann nú leggjast miklu ánœgðari í gröf sína en fyrir nokkrum árum, þegar vantrúin gekk hæst, — sökum hinna nýju trúarstrauma að ströndum Íslands. Vestr-Íslendingum ann hann líkt og faðir börnum, einkum fyrir hin kirkjulegu störf þeirra, — enda hafa þeir lítið annað gott gjört sem félag manna. Og þegar hann fer að tala um þau efni, þá má vera dimmt í lofti, ef ekkert birtir til í grennd við Pál Melsteð, og œði kalt, hitni manni ekki um hjartarœtrnar við fœtr öldungsins. Gott er nú vissulega fyrir oss, útfluttu, fjarlægu börnin Íslands, að eiga þar aðra eins vini og hann. Gott fyrir Ísland og þjóðina að eiga annað eins barn. En óneitanlega er það þó hvað gleði-

legast fyrir kristna menn að vita, að kirkja vor á vit og kærleik og hjarta slíkra manna með sér. það vegr á móti býsna miklu af ókostum, aftrför og afneitan óvitra eða óþroskaðra andstœðinga.

Reykjavík — og Ísland — á marga vini Vestr-Íslendinga, eða öllu heldr: Vér eigum þar marga brœðr og margar systr, hvað sem eitt blaðið þar kann að segja. Sú vinátta er einlæg. Hin fornu óvirðingarmerki gagnvart vestrfaranum eru horfin. Og efinn um framtíð þeirra er að upprœtast. Í stað þess njóta nú Vestr-Íslendingar virðingar og trausts meðal góðra manna heima. það mun vera til talsvert meiri sveitarígr heima á Íslandi en nú á sér stað milli Austr- og Vestr-Íslendinga. þessi breyting er hvað áþreifanlegust og gleðilegust í Reykjavík. Vitsmunir Einars Hjörleifssonar, sanngirni Björns Jónssonar og nú síðast, ef til vill, góðsemi Ólafíu Jóhannsdóttur, eiga ekki hvað minnstan þátt í því, að breyta þeim kala, sem kominn var inn eystra og vestra, í kærleik. Og gott á hin íslenzka þjóð, fœri hún sér í nyt og fái að njóta kenninga og krafta Einars Hjörleifssonar og Björns Jónssonar. Fyrir lítt kunnuga má geta þess, að Björn Jónsson er eitt mesta stórmenni Íslands, maðr augsýnilega kjörinn af œðra valdi sem bardagamaðr hinna beztu hreyfinga í þjóðlífinu, hinn sanni Íslands-ráðgjafi, þrátt fyrir ókvæðisorð óvina hans, og hvern sem konungrinn velr.

* * *

Margt annað vildi eg sagt hafa og segja frá Reykjavík og Íslandi. En eg finn það nú bezt, að eg get ómögulega sagt sumt, er eg vildi, né sagt það nógu vel, svo bæði einlægnin og bróðurkærleikrinn skipi þar ágreiningslaust öndvegið, en til þess hefir mig langað. Svo hlýt eg einhvern tíma að enda þessi mín orð. Eg vil því ekki verja þau né afsaka frekar gegn þeim, er finnast þau bera lítinn vott um kærleik til lands og þjóðar. Eg veit, að í hjarta mínu hefi eg aldrei unnað Íslandi né íslenzkri þjóð meir en einmitt eftir þessar síðustu samvistir, þrátt fyrir hið ýmsa öfugstreymi þar, sem mér duldist ekki og eg vil ekki heldr dylja. Ekki skil eg heldr, að neinum þyki minna koma til íslenzku fjallanna og fjarðanna,

þótt honum þyki þúfurnar ljótar og fenin skaðleg, og vilji burtrýma þeim. Og þess vildi eg mega óska, að engan búsettan mann á Íslandi langaði minna til að taka stein úr götu eða slétta þúfu úti á Íslandi en margan útfluttan Íslending langar til þess.

Daglega verðr maðr þess var, að margir útfluttir Íslendingar vildi fegnir fá að deyja í einhverjum dala-faðminum heima á Íslandi ; og eg tel mig einn í tölu þeirra. Þó ætti löngunin til að *lifa* þar og starfa að vera enn sterkari, ef það líf þyrfti þá ekki að verða eitt ónýtt vindhögg í mótveðrunum þar.

Og þótt eg ætti heim að hverfa hingað í auðugra og betra land, þar sem jafnvel ný-innfluttum öreigum frá Íslandi líðr flestum efnalega eitthvað betr en þeim leið þar, þó eg ætti hér margt kært, eins og á Íslandi, þó framfarirnar brosi hér við manni og mannshöndin og mannvitið hafi gjört hér meira en víðast annnarsstaðar á hnettinum, — en ef til vill aftr einna minnst á Íslandi, — þá fann eg bezt, er þeir menn, er urðu mér einna kærastir af vandalausum, fluttu mig, eftir nýafstaðinn norðangarð, úr landi og út í póstskipið ,,Vesta'', að kvöldi hins 28. Sept., að maðrinn—sumir menn að minnsta kosti — lifir ekki af einu saman brauði, efnum, framförum né mannvirkjum. Og að fátœka landið og framfaraminna fólkið getr orðið manni kærara en auðugra land og framfarameira fólk, — eins og foreldri kýs heldr að dvelja hjá barni sínu biluðu á heilsunni en að gleðja sig í glaumi hinna alsælu og óskyldu.

Stundum hefir þessi tilfinning leitt mig í þær öfgar, að mér hefir fundizt betra að biðja beininga á Íslandi en að ráða ríkjum víða annarsstaðar á jörðinni.

Og þegar eg hafði kvatt alla, var orðinn einn á skipsfjöl, þrátt fyrir fáeina íslenzka samferðamenn, og náttmyrkrið og sjávaröldurnar tóku frá mér og skyggðu á Reykjavík og Ísland, fór eg, meðal annars, að hugsa um orð skáldsins, sem lifði og dó svo einn og án þess að geta nokkuð annað en lýst tilfinningum sínum : ,,Nú er horfið norðrland, nú á eg hvergi heima''. Ekki að eins norðrhluti Íslands, þar sem við

báðir uxum upp og þar sem hin einu léttu spor lífs míns voru stigin, þar sem meðvitundin um gleðina og guð var ómenguð, var nú horfinn, heldr var að hverfa mér ,,norðrland" heimsins, útvörðr heimsmenningarinnar, hið ógleymanlega ættland sagna og frelsishreyfinga — og mitt ættland. Eg var aftr staddr á ,,Kaldadal" lífsins, sem skáldið, og átti hvergi heima, var sem ,,hrísla á hóli", tekin þaðan upp og send af örlögunum í annan jarðveg og ólíkt loftslag til að lifa þar eða deyja.

Annað flaug mér eðlilega í hug: vísa Páls Vídalíns, kveðin við skipsfjöl á Skagaströnd, í héraði okkar beggja, 11. Okt. 1715, er hann, nauðugr viljugr, varð að yfirgefa allt sitt til að standa fyrir málum sínum í Kaupmannahöfn við Odd óvin sinn Sigurðsson:

,,Látum líða' og bíða börn,
befölum guði tíma ;
þegar eg kem yfir þessa tjörn,
þá er mér ráðin glíma."

Eg vissi af baráttu víðar en á Íslandi, einnig hinum megin við hafið. Eg fann, að þessi mín önnur œskutíð á Íslandi var á enda.

En það land, sem á aðra eins sögu og annað eins lífsmagn og Ísland, það land, sem enn á önnur eins börn og Pál Melsteð og Valdemar Briem, Einar Hjörleifsson og Björn Jónsson, Jón Helgason og Harald Níelsson, og heila fylking andlega hraustra drengja, það land á meira — eða getr átt meira—en aftrför, harðindi og dauða, fyrir þjóðlíf og kirkjulíf.

,,Meðan þú átt þjóðin fróða
þvílík manna blóm,
áttu sigr, gull og gróða,
*guð* og — *kristindóm.*"

* * *

Eg ber ekki við að kveðja Ísland á annan hátt, eða að reyna að þakka mönnum þar kærleik við mig með orðum, því eg kann það ekki.

En hið eilífa kærleikshaf almáttugs guðs umfaðmi Ísland og íslenzka þjóð. Og eins og hafið hylr mér nú landið, láti hann öll þess mein hulin og horfin.

# Bréf

frá herra biskupinum á Íslandi.

Reykjavík, 24. Október, 1900.

Velæruverðugi prestr séra Björn B. Jónsson!

Þegar eg fyrir tveim mánuðum kom heim úr visitazíuferð minni á norðrlandi, beið mín meðal margra annarra bréfa yðar vinsamlega og kæra bréf frá 20. Júlí, þar sem þér sem skrifari hins ev. lút. kirkjufélags Íslendinga í Vestrheimi sendið mér í umboði félagsins ályktanir þær, sem það samþykkti á síðasta kirkjuþingi sínu út af kristnitöku Íslendinga fyrir 900 árum.

Þessi sending var mér innilega kærkomin, mín vegna sjálfs og vegna hinnar íslenzku kirkju í heild sinni Eins og eg — og eg er viss um prestalýðr landsins yfir höfuð — óskar þess einlæglega, að band kristilegs kærleika og bróðurlegrar einingar megi jafnan tengja saman kirkjuna og fólkið á móðurlandinu við kirkjuna og fólkið, sem, runnið af sama stofni og mælandi sama mál, lifir fyrir vestan hafið, svo er oss kær og dýrmætr sérhver vottr um sama hugarfar hjá yðr oss til handa. Slíkr ljós vottr eru oss nefndar ályktanir, og þess vegna fœri eg yðr, og bið yðr að flytja kirkjufélaginu, hjartananlega þökk frá mér og hinni íslenzku kirkju fyrir þetta bróðurlega ávarp, sem eg þegar hefi gjört heyrum kunnugt í blaðinu ,,Verði ljós!" og mun einnig, ef guð lofar, leggja fram á næstu synodus.

Eg skal jafnframt láta þess getið, að mér er kunnugt um, að við minningar-guðsþjónustu þá, sem eftir tilhlutun synodusar og ráðstöfun minni var haldin um gjörvallt landið síðustu sunnudagana í næstliðnum Júní, var á mörgum stöðum, og líklega flestum, einnig minnzt þess fjölmenna hluta hinnar íslenzku þjóðar, sem nú býr í Vestrheimi og hefir stofnað þar öflugt kirkjulegt samband, til þess að geta varðveitt sem bezt hinn sameiginlega kristindómsarf þjóðarinnar. Einnig þetta, sem í sjálfu sér er svo eðlilegt, er ljós vottr um það, að andlega bandið á milli yðar og vor, er alls eigi brostið, þrátt fyrir fjarlægðina.

Eins og þér máske hafið fengið vitneskju um, var eg vanheill við heimkomu mína og hefi verið það lengst af til þessa. Af þessu er það sprottið, að eg ekki hefi svarað bróðurlegu ávarpi yðar fyrr en svo löngu á eftir.

Með beztu óskum og bróðurlegri kveðju og með mestu virðing og vinsemd er eg

yðar einlægr

HALLGRÍMR SVEINSSON.

---

ALDAMÓT fyrir þetta ár eru nýkomin út. Það er tíundi árgangr þeirra. Þau hafa í þetta skifti eins og tvisvar áðr næst á undan verið prentuð hér í Winnipeg í prentsmiðju ,,Lögbergs" og eru hið ytra nákvæmlega eins útlítandi og fyrr, og stœrðin hin sama.

Efnið er all-margbreytilegt. Fyrst er prédikan út af kristnitökunni á Íslandi árið 1000 eftir ritstjórann, séra Friðrik J. Bergmann; þar næst fyrirlestr sá um *mótsagnir*, sem séra Jón Bjarnason flutti á síðasta kirkjuþingi; þá erindi það, er séra Jónas A. Sigurðsson flutti á sama þingi, til inngangs umrœðna um *rettlætinguna af trúnni*; þá ritgjörð frá ritstjóranum um hinar nýju *biblíu-rannsóknir* (út af Mósesbóka-fyrirlestri séra Jóns Helgasonar, sem hann sendi í sérprentan hingað vestr mjög skömmu eftir að hann var fluttr á synodus); þá fyrirlestr um *steina*, sem séra N. Steingrímr Þorláksson flutti á kirkjuþingi í fyrra;—og loks bókmenntaþáttr með vanalegri fyrirsögn (,,Undir linditrjánum") eftir ritstjórann. Þessi síðasti þáttr er með lang-lengsta móti.

Ritið er með sama verði og áðr. Kostar að eins 50 cent. Að prentan og pappír er ekki eins vel vandað til neins íslenzks tímarits, er nú kemr út. Og verðið er í rauninni langt um of lágt, þótt að eins sé tekið tillit til þess. Að því er til efnisins kemr, vonum vér, að þessi árgangr ritsins reynist eins mikils virði og nokkur, sem áðr hefir út komið.

,,Aldamót" þessi verða væntanlega til sölu hjá prestum kirkjufélagsins flestum eða öllum og þeim mönnum öðrum, er fyrri árgangar hafa fengizt hjá að undanförnu.

Menn fá ,,Aldamót" nú fyrr en á nokkru ári áðr, og það á mjög góðum tíma,—rétt fyrir jólin.

---

Séra Rúnólfr Marteinsson þjónaði Þingvalla-nýlendusöfnuði í Assiniboia frá því í byrjun Júlímánaðar þangað til í lok Októbermánaðar. En á þeim tíma snemma fór hann í missíónar-erindum til Vatnsdalsbyggðarinnar íslenzku út frá Qu'Appelle-ánni nálægt 30 mílum suðr frá Churchbridge. Í fundarhúsi þeirrar byggðar prédikaði hann fyrir meginþorra nýlendumanna þar sunnudaginn 12. Ágúst, og dagana næstu á undan og eftir heimsótti hann alla búendr og átti tal við þá um andleg mál. Við þetta tœkifœri myndaðist þar sunnudagsskóli með þrem kennurum.

Séra Rúnólfr hefir ritað góða grein um þessa missíónarferð sína í ,,Lögbergi", 15. Nóv. Honum fannst mikið um náttúrufegrð þá, er þessir vestr-íslenzku Vatnsdœlir eiga við að búa. Furðu þykir honum gegna, hve mikið er þar af söngelskandi og söngfróðum mönnum í samanburði við aðrar Íslendingabyggðir bæði nyrðra og syðra. En kirkjulífið er þar eftir því, sem hann segir, og eins og búast mátti við, í órœkt, skoðanir margra fráhverfar lúterskri trú og lítill áhugi almennt fyrir kristilegri starfsemi. Engu að síðr tóku allir honum vel.

Eigi löngu áðr en séra Runólfr hætti að þjóna söfnuðinum í Þingvallanýlendu brá hann sér þaðan vestr í land og heimsótti smáhópa Íslendinga í Yorkton, við Foam Lake o. s. frv.

Frá byrjun Nóvembermánaðar til ársloka eða því sem næst þjónar hann söfnuðinum íslenzka í Alberta út frá Tindastóls-pósthúsi.

---

Séra Jón J. Clemens, prestr Argyle-safnaðanna hér í Manitoba, heimsótti söfnuð Íslendinga í Pipestone-byggð (Jóhannesar-söfnuð) í Nóvember áliðnum, dvaldi þar frá 20. til 24. þess mánaðar, prédikaði og vann önnur prestsverk. Sunnudaginn 25. var hann í Brandon, prédikaði þar tvisvar þann dag í kirkju íslenzka safnaðarins og tók nokkra til altaris. Guðsþjónustur þessar allar vel sóttar, segir hann.

---

Um *synodus* þá, er haldin var síðastliðið sumar á vanalegum tíma í Reykjavík, hefir gleymzt að geta hér í blaðinu þangað til nú. En þess kirkjulega fundarhalds var og að litlu getið í blöðunum þar á staðnum,—líka í „Verði ljós!" þar gjörðist og fátt, sem í frásögur sé færanda. Tveir fyrirlestrar voru þar þó fluttir, annar af séra Jóni Helgasyni, um „Mósebœkrnar í ljósi hinna vísindalegu biblíu-rannsókna", sem síðan var prentaðr í Tímariti bókmenntafélagsins, hinn af séra Friðrik Hallgrímssyni, um „skriftamál". Og svo var nú tekin sú ályktan, að framvegis skyldi á hverri synodus á sama hátt komið með tvo fyrirlestra, annan vísindalegs efnis, en hinn „aðallega uppbyggilegs" efnis. það að gjöra það að reglu, að annar fyrirlestrinn skuli vera vísindalegs efnis, bendir til þess, að synodus eigi framvegis eins og að undanförnu að eins að vera fyrir presta og guðfrœðinga, sem þó vissulega er mjög óheppilegt. Ályktað var það og á synodus þessari, að stofnað skyldi sem fyrst til nýrrar kvöldlestrarbókar, hugvekjusafns, sem flestir nútíðar-kennimenn íslenzkir legði sinn skerf til, og var skorað á biskup landsins, hr. Hallgrím Sveinsson, að hafa formennskuna í fyrirtœki þessu.

Séra Jens Pálsson í Görðum á Álftanesi prédikaði á undan synodus í þetta sinn, út af Matt. 5, 13-16 (salt og ljós), og er sú prédikan prentuð í „V. l." Meðfram er það minningarræða út af 900 ára afmæli kristninnar á Íslandi.—Alls 21 maðr sat á fundinum, sem stóð tvo daga, 29. og 30. Júní.

---

Prestafélag Norðlendinga hélt í sumar, sem leið, ársfund sinn í Sauðárkrók, skömmu síðar en prestastefnan stóð í Reykjavík. Frétt höfum vér úr bréfi frá einum félagsmanna, að fundr þeirra hafi í þetta skifti verið öllu daufari en áðr. þó voru þar fluttir ekki færri en þrír fyrirlestrar: einn af séra Sófoníasi Halldórssyni, um *kröfur prestanna til nútímans*, annar um *einingarband vort*, af séra Jónasi Jónassyni, og hinn þriðji um *altarisgöngu*, af séra Hjörleifi Einarssyni. Auk þess var rœtt um barna-uppfrœðing og ferming, unglingafélagskap o. fl.

Tólf prestar voru á fundinum, sem eins og synodus stóð yfir í tvo daga (4. og 5. Júlí).

Óvíst er, hvort tíðindi frá þessu fundarhaldi verða nú gefin út í sérstökum ritlingi. Þó er við því búizt í „Verði ljós!“

---

Ákveðið er, að haldnir verði samtalsfundir út af andlegum málum á þeim stöðum og tímum, sem nú skal greina:

Í kirkju hins lúterska safnaðar Íslendinga í Selkirk að kvöldi föstudagsins 28. þessa mánaðar (Desember);—í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg að kvöldi nýársdags 1901;— og í kirkju Argyle-safnaða fimmtudaginn 3. Janúar, frá hádegi. Aðal-umrœðuefnið á öllum þessum fundum verðr *fermingin*.

Mælzt er vinsamlega til, að fólk hlutaðeigandi safnaða sœki fundi þessa vel og styðji eftir megni að því, að þeir geti orðið til uppbyggingar og ánœgju. Skorað er og sérstaklega á alla presta kirkjufélagsins að koma, ef ástœður leyfa, og leggja sinn skerf fram á fundunum öllum.

---

## SKÝRSLA FRÁ BANDALAGI FYRSTA LÚT. SAFN. Í WPEG.

(Skrifuð og lesin á ársfundi hinna sameinuðu bandalaga í sumar, sem leið, af Jakob Johnston.)

---

Samkvæmt skýrslu þeirri, sem þetta bandalag lagði fram í fyrra á hinum sameiginlega bandalagafundi, voru meðlimir þess þá 179 að tölu. Síðan hafa því bœtzt 28 nýir meðlimir, en úr því hafa farið 4. Tala innritaðra meðlima er því nú 203. Fjárhagr þessa bandalags má heita góðr. Í fyrra, 1. Jún., átti það í sjóði 9 doll., og tekjur á árinu hafa verið 95 doll. En nú á það í sjóði 24 doll. og um 65 doll. úti standandi. Það hefir á árinu borgað til safnaðar síns 40 doll.; einnig borgað þá 20 doll., sem það í fyrra lofaði til missíónarsjóðs kirkjufélagsins. Enn fremr hefir það gefið 10 doll. til fátœkra (um jólin) og 10 doll. til kirkjubyggingar í Keflavík á Íslandi. Þetta er alls $80. Einnig er bandalagið að safna sjóði til píanókaupa, og er sá sjóður nú orðinn 50 doll. Sjóðr þessi hefir aðallega myndazt með gjöfum frá einstökum meðlimum, en svo hefir og bandalagið á hverju ári að undanförnu haldið einn eða tvo „opna“ fundi í kirkju safnaðarins, þar sem öllum hefir verið boðið að koma. Og hafa á þeim fundum verið tekin samskot til arðs fyrir píanósjóðinn. Ávallt hefir verið vandað til prógramms fyrir þessa opnu fundi, og hafa þeir iðulega verið vel sóttir og í alla staði ánœgjulegir.

Hinir venjulegu fundir hafa verið haldnir vikulega eins og áðr: trúmálafundir, menntamálafundir og starfsfundir til skiftis. Fyrirkomulag fundanna hefir verið hið sama og áðr, að öðru en því, að meiri

hluta þessa árs hefir prestr safnaðarins flutt bæn í fundarbyrjan, sem ekki hafði áðr tíðkazt[1]).

Ef tekið er tillit til hins ýmsa, sem í stórbæ er til að draga athygli unga fólksins burt frá fundunum, má segja, að fundir hafi verið þolanlega sóttir, þó mikið standi enn til bóta í því efni; einkum eru það ungu piltarnir, sem erviðast er að halda í, og unga fólkið yfir höfuð er of hylskið í fundasókninni. Þætti bandalagi Fyrsta lút. safnaðar mjög vænt um, ef þessi sameiginlegi fundr gæti gefið einhver góð ráð til að bæta úr þessu. Því það er óneitanlega eitt af aðal-ætlunarverkum þessa félagskapar, að venja hina ungu meðlimi bandalaganna á að taka lifanda þátt í starfi því, sem bandalagið er að vinna. En það getr ekki orðið nema fundarsóknin sé í góðu lagi.

Tilfinnanlegr skaði var það fyrir þetta bandalag, að þau séra Jón Bjarnason og kona hans, sem ávallt hafa verið og eru lífið og sálin í bandalagi Fyrsta lút. safnaðar, voru fjarverandi í allt fyrra sumar, ásamt tveimr fóstrbörnum sínum, sem einnig hafa ávallt verið starfandi meðlimir þess. En svo naut það hins vegar aftr leiðbeiningar hins unga og ötula prests Rúnólfs Marteinssonar. Hinn stutta tíma, sem hann starfaði í þessu bandalagi, ávann hann sér í því jafn-marga vini og meðlimirnir voru margir.

Þótt allt hafi nú ekki gengið að óskum og ýmislegt sé óunnið, sem gjöra hefði átt, þá er þó skyldugt að þakka guði fyrir handleiðslu hans á hinu umliðna ári, um leið og maðr felr sig honum á ókominni tíð, með bæn um aukið starfsþrek og meiri áhuga bæði hjá ungum og gömlum.

---

## SKÝRSLA FRÁ BANDALAGI ST. PÁLS-SAFN. Í MINNEOTA.

(Lesin af G. B. Björnson.)

Það er fagnaðarefni að tilkynna, að þetta félag hefir tekið miklum framförum á þessu síðastliðna ári. Meðlimirnir sýnast hafa fengið meiri áhuga fyrir nytsemi félagsins en áðr, og virðist, að margt af félagslimum vilji leggja alla sína krafta fram til að auka og efla vöxt og viðgang þess. Sérstaklega skal þess getið í þakklætis og virðingar skyni við presti safnaðarins, séra Björn B. Jónsson, að framfarir í hinu andlega lífi og áframhald félagsins er honum mest allra að þakka.

Fundir félagsins eru tvennskonar: trúmálafundir og menntamálafundir. Á trúmálafundum hafa aðallega verið haldnar trúarumræður, og *Topics* verið höfð til fyrirmyndar eins og þau eru lögð fram í *Luther League Review*. Þessir fundir hafa verið mjög vel sóttir og hafa þeir sýnt miklar framfarir hjá þeim, sem í þeim hafa tekið þátt. Á menntamálafundum hafa umræður verið haldnar um nafnfræga menn og marga helztu viðburði nítjándu aldarinnar.

Í félagið eru nú innritaðir að meðtöldum heiðrsmeðlimum 68. Hafa gengið inn í félagið á árinu 16 ungmenni, en aftr á móti höfum vér misst sökum burtflutnings 10 meðlimi.

---

*) Biblíulestr í fundarbyrjan og sálmasöngr fyrst og síðast eins og áðr.

Fundir hafa verið haldnir á hverju fimmtudagskvöldi (35 alls á árinu), að undanteknu fundarhlé, sem haft var í fyrra um heitasta tímann frá Júní til September.

Í fjárhagslegu tilliti stendr félagið sig betr en nokkru sinni áðr. Hefir verið tekið inn á þessu ári $30 og borgað út $22.60. Félagið átti í sjóði í Júní 1899 $8.55, en nú á það í sjóði $15.95.

Tvær almennar skemmtisamkomur hafa verið haldnar. Hin fyrri var afmælissamkoma bandalagsins, og var hún haldin 4. Janúar 1900 í samkomusal bœjarins. Var þessi samkoma skemmtileg og arðsöm. Síðari samkoman var haldin 8. Júní 1900 á sama stað og í því skyni að bjóða hinu nýmyndaða bandalagi Lincoln-safnaðar. Samkoman byrjaði með prógrammi, en þar á eftir voru veitingar og leikir. Var samkoma þessi mjög ánœgjuleg og virðist hafa þau áhrif að tengja þessi félög til samvinnu.

Það er vonanda, að á komanda ári starfi félagið með líkum áhuga og á þessu liðna ári.

Minneota, Minn., 18. Júní 1900,

STEPHIA SIGURDSON, skrif. bandal.

---

## SKÝRSLA FRÁ BANDALAGI FRELSIS-SAFNAÐAR OG FRÍKIRKJU-SAFNADAR Í ARGYLE, MAN.

(Eftir Sigrjón Sigmar.)

---

Í félaginu eru innritaðir 40 meðlimir. Í sjóði á það $25 og nokkra dollara úti standandi. Það heldr nákvæmlega sömu stefnu, að því er starfsmáta snertir, sem síðasta ársskýrsla í „Sameiningunni" bendir á, að því undanteknu, að félagið hefir á þessu ári haft nokkra fundi þannig, að þar hefir félagsmönnum verið gefið tœkifœri til að koma með hvað sem að þeir hafa haft að bjóða félagskapnum til uppbyggingar. Og hafa því á þeim fundum ekki verið tekið nein sérstök fastákveðin málefni til umrœðu. En sum helztu umrœðuefni hafa verið þessi á trúmálafundum: siðabót Lúters, æfisaga Lúters, Melankton, kristniboð á Labrador og D. L. Moody. En á mentamálafundum: Wm. Shakespeare, John Ruskin og fleira. Fundir hjá oss eiga að vera tvisvar í mánuði, en nokkur fundarföll hafa orðið á árinu ýmsra orsaka vegna.

---



„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Runólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.